# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

III. | GIMLI, MAN., MARZ 1895. | 3.

## Til föður ljósanna.

Drottinn ljóssins og drottinn minn.
Drottinn, mikill er kraptur þinn.
Drottinn, ég hlýt að þjóna þér.
Þú einn bezt getur hjálpað mér.

Augum ég horfi upp til þín.
Ekki reiknaðu brotin mín.
Mig þú leiðir um lífsins braut,
Ljóssins faðir, í hverri þraut.

Glæddu hjá mér þitt lífsins ljós.
Lífsins mér veittu sigurhrós
Æfi minnar þá endar stund,
Á þínum mikla dýrðar-fund.

*J. K.*

# Trúin á Krist.

Menn tala opt, Kristur, um krossdauða þinn
Og kraptaverk nafnfrægust þín.
En um það ég efasemd allvíða finn,
Að upprisið hafir þú, Kristur minn,
Sem rökstyður ritningin mín.

Í æsku ég trúði' öllu um afreksverk þín
Og áleit þig frelsara minn.
Og enn er það lifandi löngun mín,
Sem lærisveinn feta í fótspor þín;
Í kristninni krapt þinn eg finn.

En trú mín er breytt nú. Ég trúi' ei á þig;
En tek þig sem fræðara minn.
Þú lífsspeki fögur bezt leiðréttir mig
Og lífgar á vandförnum æfistig;
Mig leið þú, sem lærisvein þinn.

---

Ó, drottinn, ég get ei neitt gjört þér í vil
Með gagnslausri játningar-trú.
Þinn leyndardóm auðvitað lítið ég skil;
En löngun mér veittu og náð þar til,
Að breyta eins og bendir mér þú.

Þótt veröld mig álíti vantrúarmann
Á villu-braut langt fjarri þér,
Þig sé eg minn lífgjafi í ljósanna rann;
Mér lífgandi sendir þú trúarhug þann,
Í böli sem bezt hjálpar mér.

*J. K.*

# TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

—:o:—

## VIII. ÁGÆTI OG SMÁN GUÐSNEITUNARINNAR.

Rétttrúaðir kristnir menn segja oss, að „deyjandi guð" sé nauðsynlegt skilyrði fyrir sáluhjálp vorri. Og í vissum skilningi er það satt, en þó í langtum dýpri merkingu, en vanalega er í það lagt. Vér viljum þá ekki hafa orðið í eintölu, heldr í fleirtölu og segja, að ekki að eins einn, heldr margir, jafnvel allir guðir liðins og yfirstandandi tíma hljóti að deyja til þess, að maðrinn verði sáluhólpinn. Guðirnir hafa þrifizt vel og verið hafðir í miklum metum, þeir hafa drottnað yfir heiminum, bælt hann undir sig, svo að hann hefir staðið í stað af því, að þeir hafa verið aldir á hindrvitnum, hjátrú, vanþekkingu og ótta. Það var forðum sagt, að guðinn Apolló hefði skotið ljósörvum sínum í gegnum dreka næturinnar, er hömluðu komu dagsins, en þannig hljóta örvar hinnar vaxandi þekkingar og vits, að bana hinum gömlu guðum, ef að vér eigum nokkurn tíma að geta vonast eftir því, að dagr renni fyrir sönnu trúarlífi í heiminum. Aðeins með því, að guðirnir deyji, getr maðrinn endrfæðst til æðra lífs.

En kannske ég sé nú eftir alt saman guðsneitandi í dularbúningi? Og, ef að þetta, sem ég nú hefi sagt, er guðsneitun, þá er ég guðsneitandi. En leitið þér nú upp einhvern mikinn endrbótamann umliðins tíma; mann, sem hafi verið einn af þeim, er fylgt hafi mannkyninu fram á braut framfaranna, og ég ætla þá, að treysta mér til þess, að sýna yðr, að eftir dómi samtíðar sinnar hafi hann verið talinn guðsneitandi. En þessi guðsneitun umliðna tímans er einmitt það, sem frelsað hefir heiminn, og saga þessarar guðsneitunar er saga hinna mestu afreksmanna heimsins. Þessi saga, hún er einhver hin markverðasta og gleðilegasta blaðsíða í sögu mannkynsins. Þesskonar guðsneitun er hin mesta prýði heimsins. Skáldið Wordsworth sagði með réttu um þá:

„O might my name be numbered among theirs
Then gladly would I end my mortal days"

(Ó! mætti nafn mitt meðal þeirra teljast
Ég mundi glaðr lúka dögum mínum).

En mér þykir mikið undir því komið, að þér skiljið mig rétt. Trúi ég þá á guð? Ég trúi sterkara á guð, en nokkuð annað. En hvernig stendr þá á því, að ég skuli tala þannig um guðsneitunina? Ég vil biðja yðr, að veita mér athygli um stund. Vér skulum sleppa því, að hugsa um það, hvað guð sé í sjálfu sér, en spyrjum sjálfa oss, hvernig mennirnir hafi hugsað sér guð á umliðnum öldum. Eftir hlutarins eðli getr hann ekki verið annað, en hugsjón; en það kemr af því, að guð er ótakmarkaðr, en maðrinn takmarkaðr. Þessi takmörkun eðr ófullkomnun mannsins hlýtr að verka það, að hann hafi takmarkaða, eðr ófullkomna hugmynd um það, sem, hvernig sem á það er litið, hlýtr að vera ofar allri hugsan. Það getr reyndar verið mönnum fullnægjandi í daglegu lífi, en fullkomið getr það ómögulega verið. Því er það, að ef að hugsan mannsins og trúarlíf hans þroskast, þá hlýtr hann sí og æ að kasta frá sér hinum gömlu hugsjónum, eins og trén fella blöðin á hverju hausti, er þau hafa borið um sumarið. Meiri þekking hlýtr að deyða hina gömlu hugsjón, svo að í staðinn geti komið ný og æðri hugsjón, er sé nær hinu sanna, en hin fyrri.

Vér hneykslumst stundum á þessu, oss finnst það draga úr allri þekkingu vorri á guði. En ef vér hugleiðum það betr, þá er það hið eilífa skilyrði allar þekkingar. Séum vér vitrir, þá erum vér aldrei vissir um, að vér þekkjum nokkurn hlut til fullnustu. Og þegar vér öðlumst einhverja nýja þekkingu, þá þurfum vér ætíð, að umbreyta og laga hinar gömlu hugmyndir eftir hinni nýju hugsjón. Vér höfum t. d. ekki, hver og einn, okkar sérstöku hugmyndir um vini vora, um borgina, eðr landið, sem vér lifum í, um Ameríku, um heiminn yfirhöfuð. Og vér vitum, að þessi þekking vor er ekki fullkomin, en þar fyrir þurfum vér ekki að álíta, að þessir hlutir séu ekki til, eða að það sé óskynsamlegt, að reyna að læra að þekkja þá betr. Vér tökum miklu skynsamlegri stefnu, vér álítum hugmyndir þessar breytingu undirorpnar, vér aukum þær og styrkjum með reynslu og vaxandi þekking.

Þannig höfum vér vora eigin hugmynd um guð. En meiri hluti heimsins á eftir að læra það, að það er aðeins hugmynd eðr hugsjón. Mönnum hættir mjög oft við, að rugla saman hugmyndum og veruleika. Og þessi veruleiki, sem þeir búa sér til, er þeim svo heilagr, að þeir dirfast ekki svo mikið sem snerta skugga haes. Þessi hugsjón verðr þeim goð eitt, sem þeir dýrka í blindni og þrælsótta. Þeir gera goð þetta að guði sínum. En, þegar svo einhver nýr spámaðı hinnar betri tíðar snertir goð þetta, þá verða þeir æstir og ráðast á hann í ótta og skelfingu — þeir ætla að hann sé í sannleika óvinr guðs, — og taka hann af lífi, ef að þeir geta. En fari nú svo, að hann geti varpað til jarðar goði þeirra, þá hugsa þeir, að trúin sé dauð og að alheimrinn sé guðlaus og vonlaus. Ó! hve oft hefir ekki þessi skuggalegi skrítluleikr verið leikinn í sögu heimsins og snúið í sorgarleik af heimskum og fáfróðum ofsatrúarmönnum! Vér skulum taka til nokkur dæmi og sjá, hverjir hafa nú verið hinir helztu guðsneitendr umliðins tíma og hvað þeir hafa gjört. Það verðr aðeins lítið sýnishorn af hinum mörgu afreksmönnum hins liðna tíma.

Efst upp í fornöld á takmörkum hins sögulega tíma gnæfir þá mynd ein, stór og óljós. Það er Abraham. Hvað er hann að gjöra? Honum finnst hann hafa fengið æðri köllun, hann yfirgefr hin gömlu heimkynni sín, heimili föður síns, guði feðra sinna, og heldr í brottu en veit ekki hvert halda skal. Ó! Abraham, vér beygjum höfuð vor fyrir þér og kveðjum þig, sem hinn fyrsta í hinni löngu fylkingu trúarhetjanna, sem hafa vafið það, sem menn eru vanir að kalla guðsneitun, dýrðlegum guðdómsljóma. Dæmi hans ber með sér öll þau einkenni guðsneitunarinnar, sem trúmennirnir á hverjum tíma eru vanir að fordæma. Hann sneri bakinu við hinu gamla, hinu rótfasta, við öllu því, sem vaninn hafði helgað. Hann yfirgaf guði feðra sinna. Hann fór á hrakning, óráðinn eins og menn segja, til að bjóða efanum byrgin, til þess að leggja nýjan grundvöll. Vinir hans, ættmenn hans, trúbræðr hans álitu hann guðsneitanda, hann kastaði hinum helgustu hugmyndum, sannfæringu og venju sinna tíma.

Þá er Móses. Þrátt fyrir allan þroska, sem trúarlíf manna hafði náð á þeim tímum, þá var hann þó guðsneitandi. Hann var alinn og uppfræddr sem prestr eða konungsson á Egyftalandi, en hann afneit–

aði og sneri bakinu við öllum guðum landsins og hélt á stað út í eyðimörkina með fyrirlitinn og auðvirðilegan þrælahóp. Á seinni tímum var það ofr handhægt fyrir fylgjendr hans að sjá, að hann hafi verið að leita að betra landi. En í augum hinna þestu trúmanna samtíðar sinnar í augum Egyfta var hann fyrirlitlegr guðsneitandi.

Þá er Buddha, er í sannleika á heimtingu á því fremr öllum öðrum kennurum og leiðtogum mannkynsins að nafn hans standi við hliðina á Jesú Kristi. Hann var og einn, er hóf stefnu sína með því, skýrt og skýlaust, að neita öllum hinum gömlu guðum Hindúanna. Hann sýndi þeim eintóma fyrirlitningu. Í stað þess, að biðja til þeirra, þá dróg hann efa á það, — svo lítið fannst honum þeir hjálpa heiminum— hvort þeir væru sjálfbjarga og mundu ekki fremr þarfnast hjálpar, en vera færir um að veita hana.

Enn er Zarathustra, er stofnaði einhver hin göfugustu trúbrögð, er heimrinn nokkru sinni hefir séð. Guðsneitandi var hann. Hann lét sér ekki nægja, að hrinda hinum gömlu guðum af stöllum þeirra, heldr gerði hann þá jafnvel að djöflum í hinni nýju alheimsbygging sinni; eins og haft er eftir John Wesley, er stofnaði Methodista trúflokkinn. Hann átti einhverju sinni að hafa sagt við Calvinstrúarmann einn: „Þinn guð er minn djöfull.“

Einn er Anaxagoras, er gjörði einhverja hina fyrstu markverðu vísindalegu uppgötvun. Hann kendi að sólin væri eldhnöttr; og fyrir það var hann talinn guðsneitandi í Aþenuborg, og til hegningar fyrir guðsneitun sína var hann til dauða dæmdr, þó dómi þeim væri breytt í æfilanga útlegð fyrir milligöngu vina hans, er máttu sín þar mikils. Er hann einhver hinn fyrsti (fæddist 509 fyrir Krist) af hinum mikla fjölda, er hafa verið úthrópaðir sem óvinir guðs fyrir glæp þann, að þeir hafa fundið út vegu hans.

Hinn göfugasti maðr forn Grikklands var Sókrates. Guðsneitandi var hann og var dæmdr til þess, að drekka eitrbikarinn fyrir. Hann dirfðist að trúa á betri guð, en landar hans gátu hugsað sér, eða hirtu um að dýrka.

Jesús var guðsneitandi, og eftir því, sem Gyðingar sögðu, guðlastari, sælkeri, vínsvelgr, hann fyrirleit musterið, var óvinr hinnar

ríkjandi trúar og stjórnar. En hví þá? Til þess lágu einmitt hinar sömu ástæður og nú liggja til þess, að hann er dýrkaðr sem guð. En þeir, sem nú gera kröfu til þess, að vera verðugir lærisveinar hans, virðast hafa lítið lært af dæmi hans, og litlu náð af anda hans. Þrátt fyrir aðvaranir hans: „Feðr yðar líflétu spámennina og þér grýtið þá sem til yðar eru sendir.“ Og: „enginn er talinn spámaðr í sínu föðurlandi,“ þá halda þeir fast við venjur og gamlar kreddukenningar, sem hann fyrirleit, og fordæma alla frjálsa hugsun, sem Kristr einmitt hélt fram.

Hjá Grikkjum og Rómverjum voru kristnir menn fyrrum kallaðir guðsneitendr. Og það voru þeir sannarlega. Þeir virtu einskis guðina, þeir neituðu að dýrka þá, þeir voru mótsnúnir öllum trúbrögðum þeirra tíma.

Þannig hefir það gengið ofan eftir öldunum síðan kristni hófst. hafi nokkur maðr komið fram sem trúbótamaðr, þá hefir hann verið úthrópaðr, sem guðsneitandi. Arius og áhangendr hans voru kallaðir: djöflar antikristar, vitstola, hundar, fjölgyðismenn, blóðýglar og guðsneitendr af Athanasíusi og hinum rétttrúuðu áhangendum hans. Og úr því að Athanasíusi var svo létt um að formæla mönnum, þá var það heldr ekki neitt óeðlilegt, að trúarjátningin, sem við hann er kend (lúperska játningin) og kölluð Athanasíusar játning, endaði með útskúfunar- og fordæmingar grein.

Lúther var kallaðr guðsneitandi í Rómaborg. Servetus og Calvin voru báðir kallaðir guðsneitendr af mótstöðumönnum sínum.

Giordano Bruno var hinn fyrsti maðr, sem á Englandi kendi heimslögmál Copernicusar,—sem hver skóladrengrinn þekkir nú á dögum. *Hann var á báli brendr sem guðsneitandi og fjandmaðr biflíunnar. Þó slapp Galileo frá sömu hegningu fyrir sama glæp, aðeins með því, að kalla aftr alt, sem hann hafði áðr sagt um það efni. Hann varð að segjast hafa logið því, að jörðin gengi í kringum sólina og þá stappaði hann niðr fætinum um leið og hann gekk frá borðinu og sagði: „og þó snýst hún“ (jörðin).

---

* Að jörðin og pláneturnar gangi í kringum sólina, en sólin ekki kringum jörðina o. s. frv.

Þá var Magellan kallaðr guðsneitandi fyrir það, að hann réði það, af skugga jarðar á tungli við tunglmyrkva, að jörðin væri hnöttótt, þó kirkjan segði hið gagnstæða.

Eitthvert hið sorglegasta dæmi upp á það, hvernig farið var með hina svonefndu guðsneitendr, er brenna Vanini's. Árið 1619 var hann dæmdr til þess, að brennast lifandi. Hann sagði, að vér gætum ekki þekt guð fullkomlega, nema vér sjálfir værum guðir. Um guð sagði hann: „Hann er hinn mesti kærleikr hið æðsta góða, hin fyrsta vera, réttlátr, meðaumkunarsamr, blessaðr, blíðr, skapari, viðhald, alvitr, almáttugr; faðirinn, konungr, drottinn, sá er endrgeldr og stjórnar. Hann er upphafið, endirinn, miðjan, hann er hinn eilífi. Hann einn er alt í öllu.“ Og þessi maðr, segir Max Muller var brendr lifandi. Hann var guðsneitandi, því að hann neitaði hinni vanalegu guðshugmynd og dirfðist að trúa því, að guð væri betri, en menn trúðu að hann væri.

Einn guðsneitandinn var Newton. Þegar hann sýndi og sannaði mönnum lögmál þyngdarinnar, þá réðust klerkar á hann og sökuðu hann um, að hann væri að svifta guði úr hásæti himnanna og láta alheiminn ganga eftir settum föstum lögum. Þessa hina sömu sök bera þeir á fylgjendr hans.

Kirkjan er enn ekki orðin þreytt á því, að útbreiða lygar þær, sem klerkar fyrrum hlóðu á hinn nafnfræga Frakk-lending Voltaire. Hann er konungr allra hinna yngri guðsneitenda; og þótt hann væri guðsneitandi, þá var hann þó hinn fyrsti maðr seinni tíma í Norðrálfu, sem byggði kirkju og helgaði hana guði einum (enn ekki dýrðlingum eða heil. anda eða postulum.) Alt í frá miðöldunum hafa kirkjur allar verið helgaðar Pétri eða Páli, Marteini eða Markúsi, þangað til Voltaire reisti kirkju sína og lét rita á hana: Deoerexit Voltaire. (Þýð.: Voltreisti guði [hús þetta]. En guðsneitandi var hann, því hann neitaði ...uði kirkjunnar.

Af öllum kristnum trúflokkum í öllun kirkjublöðum var Thomas Paine lastaðr og svívirtr sem neitandi guðs og allrar vonar um velferð manna annars heins. En þó byrjar Paine hina heimsfrægu bók sína þannig: „Ég trúi á einn guð, og ég hefi von um sælu annars heims.“

Hin göfuga trúar játning hans var eftir hans eigin orðum þessi: „Heimrinn er mitt föðrland, og að gjöra gott er trú mín.“ En guðsneitandi var hann. Og kirkjan var svo vitr, að hún sá, að hún þurfti að geta lamið á honum, ef að hún vildi frelsað sjálfa sig.

Vér skulum nú ljúka upptalning vorri með Theodore Parker. Hinar þrjár háleitu grundvallarsetningar þessa mikla guðsneitanda voru þessar: „Guð, samviska og ódauðleiki.“ Um hann sagði Dean Stanley, að vísindaleg guðfræði ætti honum meira, en nokkrum öðrum manni aldarinnar upp að unna. En alt fyrir það, hafa kirkjurnar brent á enni honum markið trúleysingi og guðsneitandi. Og hlýtr hann svo sæti í hinni göfugu fylkingu þeirra, sem hafa gert guðsneitun þessa dýrðlega.

En hvað voru þá þessir menn þeir voru kallaðir neitendr, eyðileggjendr. Og hinir þessir sem sátu í makindum, sem voru stöðugir í trúnni, aftrhaldsmennirnir hafa einlægt hatað svoleiðis menn og munu hata þá til enda veraldar. Vanaviðkvæðið er þetta: Hann er búinn að segja oss nóg um það, hverju hann trúi *ekki*, segi hann oss nú hverju hann trúi.“ Þetta hið sama var sagt um Jesúm Krist. Menn gleymdu hinni háleitu staðhæfing hans, að guð væri faðir allra manna, að mennirnir allir væru bræðr, að menn frelsuðust fyrir kærleikann og breytnina. Þessu gleymdu menn öllu, en mundu aðeins eftir því, sem hann talaði á móti Móses og musterinu. Þannig er því varið, að þessir byltingamenn, þessir guðsneitendr fara með miklu meiri sannleika, en nokkur annar flokkr manna, þrátt fyrir alt, sem um þá er sagt.

En hvernig stóð þá á því, að þessir menn voru guðsneitendr? Þar til liggr sú hin einfalda ástæða, að með því, að þeir höfðu meiri kærleika til að bera, og meira traust bæði á guði og mönnum, þá dirfðust þeir, að neita hinum gömlu alþýðu hugmyndum, og setja í staðinn víðtækari, göfugri og æðri sannleika. Sem dæmi getum vér tekið stöðu þeirra, er neita bókstaflega, logandi helvíti, en vona og treysta á eilífa framför og betrun mannkynsins. Þeir eru neitendr. En hverju neita þeir? Þeir neita því, að guð sé djöfull, eða vanmátt-

ugr. En hvað staðhæfa þeir þá? Þeir halda fast fram þeirri hugmynd um guð, sem er svo hátt hafin yfir hina gömlu hugmynd um hann, að hin gamla hugmynd í samanburði við hina nýju verðr að hryllilegu afskræmilegu goði. En þessi kærleikr þeirra og göfuga trú gjöra þá að guðsneitendum sinna tíma. Þeir sjá það og vita, að, *aðeins með því að deyða hinn gamla* guð, getr mannkynið stigið feti fram til æðri og betri trúar en þá er líka eðlilegt, að þeir, sem halda fast við hina gömlu trú, hljóta að álíta þá guðsneitendr.

Í fyrstu hlýtr það að koma mönnum undarlega fyrir, að hinir bestu og göfugustu menn aldar hverrar skuli vera vondir í augum samtíðarmanna sinna. En orsökin til þessa er ofr einföld. Allr þorri manna hlýtr að dæma samtíðarmenn sína eftir viðteknum mælikvarða sinnar tíðar. Hver, sem elskar meira, en menn alment gjöra, hlýtr að elska margt það, sem aðrir álíta ekki elskuvert, sem þeir jafnvel álíta sér skilt að hata. Hver, sem treystir eða trúir meiru, en almenningr, hlýtr að treysta ýmsu því, sem almenningr ætlar einskisvert. Hann hlýtr að gjöra og segja ýmislegt, sem menn hafa vanist á að fyrirlíta. Svo var Kristi varið; og ekki nóg með það, heldr hlýtr þetta að koma fyrir í hverju atriði lífsins, hvar svo, sem einn eðr annar stígr fæti framar en fjöldinn, og bakar sér með því fjandskapar hans. Almenningr hefir engan mælikvarða að mæla hann á, og svo kalla þeir hann ferlíki, eðr ófreskju. Svo er það í listum, vísindum, siðgæði, mannást og trú. Og svo hlýtr það að verða, þangað til heimrinn verðr nógu vitr til þess að sjá, hinar bestu og göfugustu hugmyndir um guð eiga einlægt þroskun fyrir höndum, að aukin reynsla manna og vaxandi þekking er sívaxandi opinberun, og í ljósi þeirrar opinberunar hljóta menn stöðugt, að laga og breyta öllum gömlum hugmyndum. Hver mundi nú setja upp á fótstalla sína hina mosgrónu guði Indlands, eða Persalands, eða Kína eða Grikklands eða Rómaborgar eða Bretlands hins forna? En þegar guðir þessir hrundu ur hásætum sínum, þá urðu dýrkeudr þeirra sem þrumulosnir, æptu ákafan og kváðu heimsendir kominn. Hver mundi nú vilja kveykja að nýju á ölturunum gömlu, fórnaraskan hefir legið köld öldum saman? Hver mundi nú vilja hlusta á hinar þögulu raddir, er forðum veittu hin guðdómlegu goðasvör í Delphi, eða Dódóna? Það var alveg nauðsynlegt, að guðir þessir dæju, svo að mennirnir gætu lifað

æðra og göfugra lífi. Og ef að heimrinn á að sjá faam á betri tíma, þá er það nauðsynlegt, að guðum þeim, sem alþýða manna nú trúir á, verði steyft úr hásætum sínum, en í staðinn komi göfugri betri og helgari guðir. Það er ómögulegt, að maðrinn verði að nokkrum mun betri, en guð sá sem hann dýrkar. En hin algenga hugmynd manna um guð nú á dögum, er ekki eins góð og hinir bestu menn. Hugsanir guðs þess, er nú er dýrkaðr eru ekki svo veglegar sem hugsanir sjálfra vor og vegir hans eru ekki svo elskulegir, sem vegir sjálfra vor. Menn eru stöðugt að óska þess, að hann batni og biðja hann, að verða betri og kærleiksmeiri, en hann er. Mannkynið snýr bakinu að ljósinu, lítr til umliðna tímans og hneygir með andakt höfuð sín fyrir steingjörðum guði eða smurðling frá öldum siðleysis og mentunarleysis. Enginn góðr maðr mundi láta sér til hugar koma, að verja guð, eins og hann er sýndr í játningum trúflokkanna, ef að hann kæmi fram í öðrum trúbrögðum, en hans eigin. En venjan hefir helgað guð þenna og gjört oss hrædda við hann. En þó er hann ekki annað en góðr. Hinn sami guð er ofar oss, hann bendir oss að koma upp til sín, að leita lífsins og ljóssins og friðarins og gleðinnar. Hinn eini vegr til þess að verða vinr guðs eins og Abraham, — vinr hins lifandi og sanna guðs, — er því sá, að gjörast guðsneitandi þannig, að neita hinum lágu og ófullkomnu guðshugmyndum umliðna tímans.

Þetta er því ágæti guðsneitunarinnar; nefnilega það, að þrátt fyrir smánanir, ofsóknir og fyrirlitningu, hafa menn dirfst og dirfast enn, að hlusta á röddina, er hljómaði í eyrum Mósesar, röddina, er hljómar í eyrum allra þeirra, á öllum tímum, er hafa hug til þess að ljá henni eyra, röddin er forðum sagði: „Tala þú til Ísraelsbarna og seg þeim að fara.“ Þannig stendr á því, að allir hinir mestu og bestu menn sögunnar, sem mest hafa hjálpað mannkyninu áleiðis, hafa verið ofsóktir og útskúfaðir af samtíðarmönnum sínum. Og það er nokkuð undarlegt, að heimrinn skuli ekki sjá það. Það er eins og spekingr einn hefir sagt: að af því að guð stjórnar heiminum eftir heimslögum Copernicusar, en ekki Ptolemeusar, þá er hann, guð sjálfr, settr á listann hinna útskúfuðu í persónu þeirra manna, sem hafa fundið og birt mönnum lögmál hans. Þannig er það enn þann dag í dag, að í persónu Darvins er hinn sanni og eini skapari heimsins hæddr og spottaðr fyrir það, að hann skyldi ekki hafa skapað

manninn og heiminn eftır reglum þeim, sem hinir siðlausu og mentunarlausu Hebrear gjörðu honum upp.

En þó að guðsneitun þessi sé heilög og blessuð og beri í sér fræið til vonar mannkynsins um alla eftirkomandi tíma. Er þá öll guðsneitun rétt og aðdáunarverð? Nei! enganveginn. Sú guðsneitun er til, sem er vonlaus, örvænting, dauði. Það er til guðsneitun, sem er það í sannleika, og ætti líka að kallast það, en það er líka til guðsneitun, sm er sannarleg guðstrú, eins og vér höfum séð af því, sem hér hefir verið sagt á undan. Vér höfum séð það, að allar mögulegar hugmyndir hljóta að þroskast og fullkomnast, ef að maðrinn stendr ekki í stað, en þá hljóta þær líka að deyja, eins og blómknappr ársins, sem leið. Það er því einungis með því, að „gleyma öllu því, sem á bak við mann er, en seilast eftir því, sem fyrir framan er," að menn gætu haft sannar og göfugar hugmyndir um guð. Menn geta einlægt leitað að guði og þó aldrei fundið hann til fulls.

En, fyrst að til er þessi dauðans guðsneitun, sem allir ættu að forðast, þá er nauðsynlegt fyrir oss, að skýra, hvað það sé, svo að vér getum greint þessa svívirðing guðsneitunarinnar frá ágæti hennar. En hvað er þá guðsneitandi? Vér skulum athuga orðið, það grípr yfir báðar þýðingarnar, því að það táknar blátt áfram: þann sem neitar guði. Hver sá maðr, sem neitar annars manns guði, er í augum hans guðsneitandi. En tökum vér orðið í sinni verulegu þýðingu samkvæmt hugsun hinna nýrri tíma, þá táknar það mann þann, sem neitar tilveru nokkurrar veru þeirrar, er með réttu geti átt nafnið „guð." En í þeim silningi er það nú að líkindum óhætt að segja, að enginn vel vitiborinn guðsneitandi sé til. Eða með orðum sálmaskáldsins þá er það einungis „heimskinginn," sem dirfist að segja: „að enginn guð sé til". Og jafnvel hann virðist oftast vera svo skyni gæddr, að hann geymir „það hjá sjálfum sér" en er ekki að hampa því framan í aðra. Ég veit það vel, að prédikunarstólarnir og kirkjublöðin eru troðfull af hrókaræðum um vísindalegt guðleysi, en þó er enginn sá flokkr til af viðrkendum vísindamönnum í heiminum, er ekki mundi álíta það heimskulegt og óvísindalegt, að staðhæfa það, að enginn guð væri til. Þeir mundu segja: Enginn maðr hefir rétt til þess, að neita því fyrri, en hann er *viss* um, að hann þekki alt, sem er í alheiminum. En trúarleiðtogar þessara tíma eru því alvanir,

að fara þeim orðum um vísindin, sem þeir sjálfir gjöra sér ekkert far um, að skilja, eða vita, hvort séu á rökum bygð eða ekki. Hið mesta, sem nokkur maðr gæti sagt, er það, að hann vissi ekki um það. Og skynsamir menn, sem rétt litu á málið mundu virða það og skoða það, sem kurteisi, í stað þess, að varpa á það fyrirlitningu og álíta það guðleysi. Vísindin eru nú farin að venja menn við það, sem með tímanum ætti að breiðast út yfir hinn trúarlega heim — að þegja með kurteisi og lítillæti um þau efni, sem menn ekki þekkja til hlýtar.

En hvert er nú hið sanna eðli þeirrar guðshugmyndar, sem gjörir manninn guðleysingja, ef að hann neitar, Eða með öðrum orðum: hverju þarf maðr að neita til þess, að geta kallast guðsneitandi í hinni verri merkingu þessa orðs? Það getr vel komið fyrir, að hann neiti guði Buddha, eða guði Kínverja, eða guði kaþólskra, jafnvel yðar guði, eða mínum guði, og þó er hann að gera það til eflingar hugmynd þeirri, sem hann álítr æðri og betri. Það, sem orðið „guð“ á í raun réttri að þýða, er hvorki meira né minna, en þetta: kraftr fyrir utan oss, fyrir ofan oss og umhverfis oss, er bindi oss með lögum sínum, með því að hlýða lögum hans, lifum vér, ef að vér óhlýðnumst þeim deyjum vér. Þetta hefir þá þýðingu, að hver maðr, sem viðrkennir lögmál í sjálfum sér, eðr fyrir utan sig, sem bindi hann og leggi við hegningu, ef að hann ekki gjörir það sem rétt er andlega eða líkamlega, sá maðr trúir á aðal-hugmyndina, sem felst í orðinu „guð.“ Það er sama þótt hann sé vantrúaðr á alt annað, þótt hann sé vantrúaðr á persónulegan eða sjálfsvitandi guð, meðan hann trúir á lögmál, á skuldbindingu, á hegningu, ef að út af lögmálinu er brugðið, þá trúir hann á guð. Það kann vel að vera, að hans guð sé ekki eins góðr, eða kærleiksríkr, eða fylli hjarta hans jafnfögrum vonum og minn. En alt fyrir það getr maðr þessi ekki kallast guðsneitandi.

Í augum hins sanna guðleysingja er alheimrinn ekki til, heimrinn hefir enga þýðingu. Í heiminum finst engin regla. Hann þessi maðr, er sjálfr sitt einasta lögmál. Afl ræðr öllu og skuldbindingu þekkir hann ekki; hann er „án guðs“ og „án vonar í heiminum“ þess kyns guðsneitun er virkilega til, en hún kemr meira fram í verkinu, en samsettu hugsanakerfi. Hún er hvergi fram sett í bókum af því, að hún hefir engan skynsamlegan grundvöll að standa á. Því, að undireins og hún kemr inn í ríki vísindanna og heimslaganna, þá

lendir hún í mótsögn við vísindin, mótsögn við lögmál heimsins, mót sögn við alt sem er og menn þekkja. En í verkinu kemr hún fram. Og þau áhrif, sem hún hefir, eru í hæsta máta skaðleg og verðskulda alla þá smán, sem á hana hefir verið hlaðið. Hún er svívirða, sem hver göfugr maðr hefir rétt til að hatast við, ef að ósekju er á hann borin. Í fám orðum ætla ég að lýsa einkennum hennar, svo að vér getum greint hinn sanna óvin guðs og manna.

Það er þá fyrst, uð hún einkennir sig með vanþekkingu og hugsunarleysi, annaðhvort sem vitandi eða óvitandi uppreisn móti skilyrðum og lögmáli lífsins. Þessi skilyrði og þetta lögmál er hinn starfandi og í öllu verandi guð. Hver, sem gengr í bandalag við þetta lögmál og við þessa krafta, hann hefir þá sem stuðning að baki sér, hann setr sig í samræmi við þá og verðr þannig sterkr og máttugr; en hver, sem þar á móti veitir þeim mótstöðu, eðr breytir þvert á móti þeim, hlýtr að farast. Þessi sannleikr gildir, hvert heldr lögmálið er í oss, eðr fyrir utan oss, hvort heldr vér köllum lögmálið eðr kraftinn líkamlegan (material) eða andlegan (mental) eða siðgæðislegan (moral). Að komast í mótsögn við lögmál þessi, er að komast í mótsögn við guð, og er því guðsneitun í verkinu. Heilir þjóðflokkar, nafnfrægir menn og aðrir ókunnir heiminum hafa reynt þetta; en þeir hafa æfinlega malast sem duft og orðið að ösku. Rómaborg féll af þessum orsökum, Napóleon mikli sömuleiðis; svo fellr hvert eitt illa bygt hús, eða óvandlega hlaðin stýflugarðr. Vér hljótum að læra það, að vér getum ekki gabbað eða blekt eða farið í kringum lög alheimsins. Það er guðsneitun, að ætla sér annað, en að læra og hlýða.

Þegar guðsneitun þessi kemr fram í heimi siðgæðisins. þá er hún eyðileggjandi og niðrdrepandi. Hún skeytir ekki um lögmál það, sem tengir oss meðbræðrum vorum vina- og félagsböndum. Hún gleymir því, að skyldur og skuldbindingar binda báða parta, og þeir, sem þannig eru gerðir, troða sér inn í réttindi annara, brjóta þau niðr og verða þess loks vísari, að þeir eyðileggja bæði aðra og sjálfa sig. Þesskonar guðleysi viðrkennir ekki neinar skuldbindingar, heldr fer að eigin geðþótta sínum og leitast við að steypa úr völdum öflum þeim, sem halda heiminum í reglu.

Hin seinustu endalok guðsneitunar þessarar eru örvænting. Hún hvorki sér né getr kannast við nokkra reglu, eðr nokkurt lögmál, eð

nokkura stefnu í gangi hlutanna og fyrir sjónum hennar verðr heimrinn loks líkr mastra- og stýrislausu skipi úti á reginhafi. Það stefnir ekki til hafnar, en hrekr, hjálparlaust og vonarlaust leikfang hinna eyðileggjandi afla. Af þessu sálarástandi spretta glæpir og sjálfsmorð. Því að glæprinn er örvæntingar tilþrif eftir því, sem menn eru vonlausir um að geta öðlast á náttúrlegan, eðr löglegan hátt. Og sjálfsmorðið er uppgjöf hinnar vonlausu baráttu við það, sem ekki verðr aðgert, eða ekki er hægt undan að komast.

Hin sanna guðsneitun er því veikleiki og örvænting, vandræða barátta móti eðli og náttúrlegum gangi hlutanna. Guðstrú (theism) er aftr á móti viðrkenning á lögum og öflum heimsins þegar maðrinn gengr í bandalag við þessi lög til þess, að fá einhverju framgengt. Það er hið sanna líf og styrkr, fult af guðlegri eilífri von.

Gagnvart hinum dimmu ráðgátum, er hylja veru guðs, taka því göfugir menn sér stöðvar trausts og vaxandi trúar. Og þessi trú og von á sér sterkar rætur í reynslu umliðins tíma. Reynsla mannsins hefir réttlætt það. Og þó að oft kunni það að koma fyrir, að skýjin depri sjón vora, þá skulum vér ekki snúa aftr, heldr ganga djarflega í gegnum skýjið. Væri engin sólin væri ekkert skýjið. Og ljósið að ofan er á bak við skýjið.

ENDIR.

---

## BORGAÐ „DAGSBRÚN“.

Gimli—Jón Sigurðsson og Rögnvaldr Jónsson, [báðir II. ár]. Glenboro—Magnús Jónsson; Eyford— Magnus Snawfield; Hecla— Páll Jakobsson, [allir II. ár]; Steinþór Vigfússon og Jón Austmann (III.). Hnausa P. O. —Baldvin Jónsson, Miss G. E. Dalmann, Jón Gunnarsson,(öll II. ár); M. Magnússon (I. & II.), Miss Sigurlaug J. Vídal [III.]. Minneota — G. A. Dalmann (II & III.). Mountain—Helgi Stefánsson, Þórir Bjarnason, Bjarni Benediktsson og Eggert Vatnsdal, (allir II. ár]. Wilno—Jóhannes Magnússon [III.]. Winnipeg—Einar Olafsson og B. L. Baldwinson [báðir II.; Páll Sigfússon; I. ár. Bardal P. O. —S. B. Benedictson I. ár. Icelandic River — Stefán B. Johnson I. & II. ár. Arnes—Sigrmundr Sigurðsson, I.

---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---


"DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði

Árgangrinn kostar í Vestrheimi .............. $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér .............. $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar .............. Kr. 2,00

— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. —

Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 538 Notre Dame Ave., Winnipeg, Man. Canada.

---

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

---

Prentsmiðja G. M. Thompson.